# Frásögur

um

## apturhvarf tveggja Gydínga,

### fullordinns manns og úngrar stúlku.

## Fyrri frásagan.

Í Pétursborg í Rússlandi hafa nokkrir kristnir stofnad félag eitt, hvers medlimir ad heimsækja skulu fángelsin, til ad bera sig ad telja svo um fyrir þeim faungudu, ad þeir umvendist til Guds, og líka verka til þeirra líkamliga frelsis, ef þess er audid.

Nú bar svo til, ad félag þetta fann þar einn fángadan Gydíng, sem ad eins taladi pólska þýdsku, er eingin af medlimum félagsins skildi, og þessvegna feingu þeir einn, þar þá staddan, kristnibodsprest, Móritz ad nafni, sem sjálfur var Gydíngakyns, en var ordinn velkristinn, og því kosinn til ad prédika evangelium fyrir Gydíngum. Hann gekk nú inní fángelsid til þessa vesæla fángada Gydings, og spurdi hann medal annars, hvar fyrir hann væri til fánga tekinn? Gydíngurinn svaradi, ad hann hefdi geingid í borgun fyrir annan Gydíng, sem hefdi tælt sig þar til, en strokid strags í burtu, og ekkert borgad af

skuldinni; og þar fyrir hefdi sá, sem skuldina átti inni hjá hinum, heimtad borgunina af sér, sem borgunar-manni; en þar skuldin hefdi verid miklu stærri enn svo, ad hann gæti borgad honum hana, hefdi hann verid settur í fángelsi.

Mórits spurdi þá Gydínginn ad: hvort hann áliti ad skuldheimtumadurinn hefdi gjört þetta órétt? Gydíngurinn svaradi: ó nei! en madur sá, sem eg gekk í borgun fyrir, hann gjørdi órétt, því hann sveik mig og dróg á tálar. Skuldareigandinn krefst med réttu, ad eg uppfylla skuli loford mitt og borga þad, sem eg lofad hafdi, vegna hins mannsins. Mórits spurdi þá: hvernig hugsar þú, ad komast á frían fót aptur? Gydíngurinn svaradi: þad veit eg ekki; eg hefi alls einga von til þess; því skuldheimtumadurinn býst eg ekki vid, ad gefi mér upp skuldina, og þad skyldi stakligt vera, ef nokkur annar vildi borga fyrir mig. Mórits prestur segir þá: þetta er satt! En hefur þú þá nokkud hugsad til þess, ad þú stendur og svo í skuld vid Gud þinn skapara? því fyrir þinn syndugleika og yfirtrodslur hans heil. lögmáls hefur þú honum stóra skuld ad gjalda, sem gjörir þig sekan eilífs fángelsis. Þú getur ekki heldur lokid þá skuld Gudi; og hvernig viltu þá komast úr hans fángelsi? Hugsadu nú um þetta, því þad er hid mikilvægasta spursmál. Þad fángelsi, sem þú ert nú í, tekur þó um sídir enda, en hitt tekur aldrei enda ad eilífu. Mórits skildi nú vid þennan mann um sinn, til ad gefa honum tíma til eptirþánka út af samtali þeirra. Sídan kom hann til þessa fángada manns aptur í annad sinn, og spurdi hann: hvort hann hefdi hugsad eptir því spursmáli, sem hann hefdi sett fyrir hann sídast,

nefnilega: um hans stóru skuld til almáttugs Guds, og hvernig hann hugsadi til ad geta borgad hana framar enn hina jardnesku, sem hann stædi í vid skuldheimtumanninn? Gydingurinn svaradi: já, þarum hefi eg nokkud hugsad, en eg meinti, ad ángur, fasta og bæn gæti þénad til ad lúka mína andligu skuld, og til ad frelsa sálu mína. Mórits svaradi honum þá aptur: heldur þú þetta nægi þá ekki eins í tilliti til þinnar jardnesku skuldar? En fardu og segdu skuldheimtumanni þínum, ad þig ángri óforsjálni þín, og lofadu ad þú skulir fasta, og bidja hann uppgjafir á skuldinni, og þá hlýtur hann, ef þad nægir, ad vera skyldugur til ad láta þig lausan úr fángelsinu. Gydingurinn svarar: þad sé eg ad aldeilis ekki nægir. Mórits segir þá: hvernig heldur þú þá ad slíkt muni einskostar frelsa þig frá Guds eilífa réttlætisdómi? Gydingurinn vidurkendi þá, ad sú trúarbragdaþekking, sem hann hefdi, gæfi sér ekkert svar hér uppá. Mórits sýndi honum sídan framvegis út af þeirri hebresku bibliu (nefnilega: gamla testamentinu), sem hann hafdi flutt med sér í fángelsid, ad hvorki ángur né fasta, enda ekki betran lifnadarins, gæti á nokkurn hátt dugad til ad afmá mannsins undanfarnar yfirtrodslur, af því hann væri í raun og veru skyldugur til ad offra Gudi öllu sínu liferni, og öllu því, sem hann til hefdi. Svo þó hann tæki sídar til ad lifa gudliga, en hefdi vanrækt þad ádur, — væri eins til ad minda, og ad bæta ekki nýrri skuld vid þá gömlu, því sú gamla væri eins ógoldin fyrir þad. Gydingurinn spurdi þá Mórits, hvort hann sjálfur væri ekki ogsvo syndari, og þessvegna sekur, sem hann fyrir Gudi til ad lída eilíft fángelsi? Þar

til svaradi Mórits: jú, í saunleika er eg þad, því vér erum allir af náttúrunni reidinnar börn! Þá spurdi Gydíngurinn, hvernig hann vonadi þá eptir, ad fá lausn? Mórits svaradi: eg get vissuliga vonad eptir ad fá hana, og þad med lifandi sannfæringu; því sjá! eg þekki Messias, um hvern spámadurinn Esajas í 53ta kapit. — og ekki einúngis hann, heldur og fleiri gudsmenn í gamla testamentinu á mørgum stødum hafa talad. Sídan las hann fyrir Gydíngnum þennan sama kapítula, og sýndi honum þau dýrmætu fyrirheit, sem hann inniheldur. Þar á ofan sýndi hann honum og sannandi út af nýa testamentinu, ad þessi Messias væri sannarliga kominn, ad hann hefdi geingid í borgun fyrir oss hjá Gudi, og hefdi lokid alla vora skuld. Þar á ofan sýndi hann Gydíngnum og útlistadi fyrir honum, í hverju trúin á Messias og tileinkun hans réttlætis væri fólgin, og sannadi fyrir honum, ad hver sá, sem fundid hefdi nád hjá Gudi, ætti aptur á móti ad elska sinn Endurlausnara og þakka honum, og sídan keppast vid, ad gjøra adra, ásamt sér, hluttakandi í þeirri sømu nád, og fyrir þá skuld kvadst hann nú vera kominn í fángelsid til hans, ad hann vildi þetta sama vid hann gjøra. Af þessu tali hans komst nú Gydíngurinn svo vid, ad hann tók ad gráta, og vidurkenndi, ad hann aldrei, medal sins fólks, hefdi fundid dæmi þvílíks kærleika, sem þad kristna félag þar í borginni audsýnt hefdi saungunum, hverra helst þjóda edur trúarbrágda sem þeir væru, og þessvegna sýndi þad sig, ad trúarbrøgd þeirra kristnu — þegar heim annars af alúd hlýtt væri — væru betri enn trúarbrøgd annara.

Nú vildi ekki Mórits í þad sinn framar þreyngja uppá Gydínginn tali sínu um efni þetta, svo hann skyldi ekki, í von um ad leysast úr sínu jardneska fángelsi, máske af yfirskini, látast taka á móti kristindóminum, án þess ad vera þó af hjarta umventur og fullviss ordinn um kristiligrar trúar sannleika. Í þess stad fór hann til ádurnefnds félags medlima, og segir þeim frá samtali sínu vid þann fángada Gyding. Snéri þá félagid sér til þess manns, sem skuldina átti ad krefja, og komst ad raun um, ad þad var aldeilis satt, sem Gydíngurinn hafdi sagt, hvernig skuldin væri tilkomin. Bádu þá félagsmenn fyrir hann og sömdu svo vid skuldareigandann, ad hann, fyrir þeirra umtölur, lét sér nægja ad fá 40 rdl. fyrir hverja 100 rdl. af skuldinni; lögdu þeir sídan þetta út fyrir Gydínginn, og leystu hann þarmed úr fángelsinu. Nú vard Gydíngurinn, enn framar enn ádur, hrærdur af þessu kristiliga kærleiksverki, tók því enn betur ad rannsaka Jesú evangelium, svo hann komst til stadfastrar sannfæringar um þad: "ad þar væri ekkert nafn mönnunum annad gefid, í hverju þeir gætu sáluhólpnir ordid, nema nafn Jesú Krists," og þessvegna lét hann þá med gledi skíra sig í hans nafni, til ad frelsast fyrir hann, svo vel frá eilífu fordæmingar fángelsi, sem því jardneska, úr hverju hann allareidu leystur var.

Sjáum vér þá af þessu, brædur! hversu ad sannleikur evangelii getur frelsad hvern þann, sem gefur honum réttiliga rúm hjá sér; en skuli þad ske hlýtur sannarlig umvendan ad finnast hjá manni, ef þad duga skal; en umvendanin er ekki sönn, nema henni fylgi fyrst alvarligt ángur fyrir drýgdar syndir; því

næst lifandi trú á Jesú Krists fridþægíngu, sem hvorttveggja sýnir sig í brennandi og óaflátanligri bæn til Guds miskunar; og í þridja lagi hlýtur sídan sanngudligt liferni, leynt og ljóst, ad spretta þar af. Þetta verdur — ef duga skal — ad finnast hjá ollum oss, sem kristna trú í frá barndómi þekkjum; annars gagnar sú einsamla þekking og játning oss oldúngis ekki til ad umflýa eilíst fordæmingar fángelsi. Gud gæsi ad svo væri ástatt fyrir ollum oss.

---

## Sídari frásagan.

Eitt námgjarnt barn, ad nafni Matthildur, hverrar foreldrar voru Gydingar, var á sínu 9da aldursári látin gánga í skóla hjá kristnum; þó med þeim skilmála, ad á medan kennendurnir væru ad uppfræda hin bornin í trúabrogdunum, skyldu þeir ætíd fá Matthildi litlu eitthvert annad efni um ad sýsla út fyrir sig, sem hún hlyti ad halda þaunkum sínum svo fast vid, ad hún gæti ekkert tekid eptir því, sem kennendurnir segdu kristnu bornunum um trúarbrogdin. Af því Matthildur hafdi ætíd verid mikid hlýdin foreldrum sínum í odru, þá treystu þeir því, ad hun mundi ogsvo í þessu tilliti gjora þad sama, og eingan gaum ad því gefa, sem kennendurnir segdu hinum bornunum trúarbrogdin snertandi. En í þessu tilliti mætti sú barnliga hlýdni Matthildar litlu vid foreldra sína allra þýngstu freistingu; því svo sem hún, vegna sinna gódu gáfna, vard ætíd skjótt búin ad ljúka af því verki, sem henni var sett fyrir á medan kennendurnir voru ad uppfræda kristnu bornin í trúarbrogdunum, (sem optast var eitthvert reiknings-

dæmi, er hún átti úr að leysa á meðan), þá gat hún ekki, þegar hún var búin að því, apturlokað svo eyrum sínum, að hún ekki heyrði það, sem kennendurnir töluðu. Hún heyrði þessvegna margt, sem snerti þann kristiliga lærdóm; en sérhvað, sem hún heyrði, innrættist fastliga í hjarta hennar. Þessvegna þráði hún inniliga alla daga eptir að heyra á uppfræðingu kristnu barnanna, og leitaðist líka svo eptir, að geta síðar talað við börnin um þetta efni, þegar frístundir gáfust þar til. En af því hún ekki gat fengið hjá börnunum þá upplýsíngu um það, sem hún vildi, þá hugsaði hún sér, að leita hennar hjá því eldra kristna fólki, hjá því nefnilega, sem hún áleit að vera frómast og best, fyrir hverju hún og bar mikla virðingu. Hennar sterkasta eptirlaugun var sú, að fá að heyra meira um Jesúm Krist. Nú bjó þar í einu húsi, sem var upp yfir því, sem foreldrar hennar voru í, kristið heimilisfólk, meðal hvers að var úng þjónustustúlka, að nafni Elísabet, sem var mikið kristiliga sinnuð. Opt tók þessi stúlka eptir því, hvað þetta Gyðingabarn var aðgætið, og hún sjálf komst svo mjög við þaraf, að hún optliga, þegar hún sá barnið, bað fyrir því með inniligustu meðaumkun, að Guð vildi unna því þeirrar náðar, að geta þekkt sinn frelsara. Miðt í þessu leið þó eitt heilt ár svo út, að þær gátu aldrei fengið færi til að tala saman. En þeirra hjörtu voru þó svo innteken af elsku hvorrar til annarar, að þær með fáum orðum létu hvor aðra skilja, hvað þeim í brjósti bjó. Og þau fáu orð, sem Elísabet gat við hana talað, blessaði þó Frelsarinn svo í hinnar hjarta, að Matthildur kom æ optar og optar á hennar fund með þá inniligu beiðni: "æ vertu nú svo góð

Elísabet mín! og segdu mér aptur nokkud um þann elskuliga Drottinn Jesúm!" Þegar nú sá stutti tími var lidinn, sem hún mátti hjá henni vera, og hún feingid hafdi ósk sína, ad heyra nokkud um Jesúm, gekk hún glød burtu frá henni aptur til foreldra sinna, og þjónadi þeim med mestu hlýdni. En samt sem ádur merktu foreldrar hennar, ad eitthvad gekk ad henni; og þar ed þau kendu um þetta þeirri kristiligu uppfrædíngu í skólanum, þá bádu þau-kennendurna á ný, ad láta ekki barn sitt taka neina hlutdeild í henni. En nú var þad strángasta forbod ekki framar ad gagni; því, til dæmis, þegar Matthildi litlu var sett fyrir ad leysa úr reikningsdæmi, svo flýtti hún sér ad því, sem hún best gat, (því hún var skørp ad gáfum), og þegar hún var búinn, lét hún ad vísu augu sín alltaf horfa á reikningstøfluna, en med eyrunum hlustadi hún nákvæmliga eptir því, hvort kennendurnir segdu ekki bornunum neitt frá þeim dýrmætu Jesú. Á þessum tímum tók hún ogsvo fyrir sig á morgnana, eptir þad hún hafdi þvegid sér, ad tilbidja ekki einúngis þann kæra Gud, heldur ogsvo sjálfan Jesúm, "því án þess eg gjøri þad, sagdi hún, get eg ekkert ad gagni erfidad." Hennar girnd eptir ad þekkja Jesúm æ betur og betur fór dagvaxandi. Med þessum sínum fróma barnaþánka gekk hún á hverjum degi, um litinn tíma, ad øllum dýrum þeirra húsa, í hverjum ad kristid fólk bjó, til ad hlusta eptir, hvort þeir, sem þar inni fyrir væru, toludu ekki eitthvad um Frelsarann. Feingi hún einhverja bók til ad lesa í, leitadi hún alleina eptir því, hvort hún fíndi ekki Jesú nafn í henni; fíndi hún þad ekki, þá fór hún ad gráta, og vildi svo ekkert í henni lesa. Foreldrar hennar, sem

æ framar og framar komust að raun um sinnislag hennar, óttuðust nú alvarliga, að hún mundi loksins kristin verða, og tóku hana þarfyrir hreint burtu úr skólanum. En faðir hennar fór nú sjálfur til að uppfræða hana á sinn hátt. En samt sem áður varð laungun hennar eptir Jesú æ stærri og stærri, og þess framar leitaðist hún við, að koma á tal við sína kæru Elísabetu. En það sem sárast tók hana, var það, að hún fékk nú ekki framar að fara með øðrum børnum til kirkju hinna kristnu, hvað henni áður ekki hafði fyrirmunað verið. Á meðan hún var lítið barn, hafði hún opt með þvottakonu einni feingið að koma í hús þess guðhrædda prests hinna kristnu, en nú var henni ekki leýst né liðið það framar. En þess innilligar lángaði hana til að heyra hann prédika, því hún vissi, að hann talaði svo margt og mikið um þann kæra Jesúm. Þegar hún nú eitt sinn minntist á þetta grátandi við Elísabetu, lagði þessi henni þau ráð, að hún skyldi biðja Frelsarann, að hann virtist að haga því svo til, að hún feingi aptur einusinni að gánga til kirkjunnar, og bætti því við, að sá elskuligi Frelsari hefði sjálfur sagt: "hvar tveir af yður taka sig saman, til að biðja um einn hlut, hver sem hann svo er, þá skal þeim hann veittur verða." Þessi orð kveiktu sem nýtt ljós í hennar sálu. Já, sagði hún, vertu þá svo góð og biddu um þetta með mér! Kom þeim báðum það svo saman, að þær skyldu þessa viku um þetta biðja: að sá elskuligi Endurlausnari vildi svoleiðis undirbúa hjørtu foreldra hennar, að þau þann næstkomanda sunnudag vildu leyfa henni að fara til kirkju. Elísabet hét henni ogsvo, að hún skyldi biðja foreldra hennar að lofa henni það. Nú þegar þær

á föstudags kvöldið báðust fyrir sameiginliga til Jesú, var í hasti hrundið upp dyrum húss þess, þar sem þær báðar voru inni, og þar kom þá inn systir Matthildar, sem hlustað hafði til, hvað þær hefðu verið að gjöra, og hún kallaði þá til hennar með bistri röddu, og sagði: "biddu við, Matthildur! þú skalt nú undir eins koma með mér til hans föður okkar." Degi síðar, eptir máltíð, kom barnið snögg-vast með hræðiliga grátþrúngnum augum til Elísa-betar, og sagði við hana, að nú í kvöld þyrði hún ekki, eins og áður — já aldeilis ekki framar — að koma til hennar (nefnil. til að biðjast fyrir). Eptir það Elísabet hafði nú mikið geingið á hana um það, hvað því ylli, að hún þyrði það ekki, gaf hún henni það loksins í skyn, að faðir sinn hefði slegið sig, hvað ogsvo auðséð var af táralagi hennar. Hún sagði og-svo, að faðir sinn hefði þar á ofan hreint bannað sér, framar að biðjast fyrir, því hún sagði, að hann áliti það synd, já stórsynd, að biðjast fyrir. Og þegar hann hefði komist að, um hvað það var, sem hún hefði helst beðið Guð (nefnil. um að fá að fara til kirkjunnar), hefði hann barið sig þess meira. En eg ætla þó í kvöld að koma samt til að biðjast fyrir, annars væri það til einkis, þó eg hafi áður gjört það, og feingi því ekki fyrir það, að koma til kirkj-unnar. Eptir þetta tók Elísabet að útskýra fyrir henni, að það væri eingin synd að biðjast fyrir; hún skyldi að eins halda áfram að biðja í hjarta sínu; en sjálf sagðist hún ekki framar ætla að biðja Guð um það hennar vegna, að hún feingi að fara til kirkjunnar, og ekki heldur biðja foreldra hennar að leyfa henni það, þar hún merkti, að það væri þeim svo þvert á

móti gêdi. En trú þeirrar litlu Matthildar var sterk-ari enn vinstúlku hennar, þó þessi væri eldri. Nú gekk sú litla sárhrygg í burtu frá henni, því hún mátti nú ekki leingur hjá henni tefja; en um kvøldið kom hún aptur til hennar, og hætti ekki fyr að sár-bæna hana, að biðjast fyrir með sér, heldur enn Elísabet varð að láta það eptir henni; en eg ætla — sagði hún — að standa á baki þínu að eins á meðan. Eptir það, þær hofðu nú haldið stutta bænagjørð til Guðs, gekk Matthildur í burtu úr húsinu með þeim orðum til Elísabetar: "æ komdu nú aptur snemma á morgun niður í hús foreldra minna, og biddu þau að lofa mér að fara með þér til kirkjunnar." Og hvernig sem Elísabet mælti á móti því, að gjøra það, stóð hún samt fastliga á því sama. Á sunnudags morguninn fór Matthildur litla mjøg snemmu á fæt-ur, og settist á trøppurnar úti fyrir húsdyrum Elísa-betar, og beið eptir að hún kæmi, jafnvel þó hún-mætti óttast fyrir, að systir hennar sæi hana, og segði eptir henni foreldrum þeirra. Þegar nú Elísabet kom og tók aldeilis þvert af því, að hún færi að biðja foreldra hennar, að lofa henni að fara til kirkjunnar með sér, þar þeim væri það svo stórum á móti í sjálfu sér, þó ekki færi hún að nauða á því við þau þar á ofan, þá tók litla Matthildur sárt að gráta, og sagði: "æ við høfum þó allareiðu beðið Guð um það, og þó fæ eg samt ekki að koma til kirkjunnar, ef þú gjørir þetta ekki fyrir mig." Matthildur hafði í sér fasta og rétta tilfinningu um það, að það væri ekki rétt, að biðja Guð um einn hlut, og vilja þó ekki gjøra það að verkum, sem maður sjálfur gæti, til að ødlast uppfyllingu bænarinnar. En samt sem

ádur fór svo loksins, að vinstúlka hennar gekk ein til kirkjunnar til að heyra morgun-prédikunina; jafnvel þó Matthildur litla hefði áður geingið til hennar, án þess að hræðast það straff, sem faðir hennar hafði hótað henni fyrir það. En þegar Elísabet kom nú í kirkjuna, gat hún ekki gleymt tárum litlu Matthildar, og hversu hún hefði sármænt eptir sér, þegar hún hefði af stað farið, svo hjarta hennar, undir allri prédikuninni, hugsaði meir um þá sárhryggu litlu Matthildi, sem hún skildi við, heldur enn um það, sem presturinn prédikaði. Þegar hún nú kom aptur heim frá kirkjunni, var Matthildur aptur til staðar í húsinu, og sagði! "gjörðu nú svo vel, og vertu hérna fram yfir miðdegið." Eptir máltíð fékk Elísabet frá húsbændum sínum þá skipan, að hún skyldi sækja til eins vinar þeirra bók handa þeim til að lesa í. Þetta tækifæri notaði Matthildur litla sér, og bað að hún mætti fara með Elísabetu þángað, og að Elísabet skyldi biðja foreldra sína að lofa henni að fara þetta með sér, til hvers að hún var mikið fús, og síðan geingu þær ofan troppurnar úr húsinu. En rétt í því kom móðir Matthildar litlu móti þeim út úr húsi sínu, og leyfði að barnið skyldi fá ótt sína í sögðu tilliti, þegar hún hafði heyrt hana. En þetta var svosem inngángur til annarar bænar til móður hennar, þegar hún tók svo vel þessari bón. Sú litla veik sér þá fljótt til hliðar, setti sig niður á fótaskor eina, og sagði opt hvað eptir annað: "æ, móðir mín góð! þetta er þó ekki allt; það er annað nokkuð meira, sem eg vil biðja um." Móðurin svaraði, að hún skyldi þá segja hreint út, hvað það væri. Það er það, sagði sú litla: "hvort hún mætti ekki ogsvo fara með Elísabetu til kirkjunnar?" Ur þeirri bón þóttist móðir hennar ekki geta sjálf vel leyst, heldur hlyti hún að bera þá bón upp fyrir föður hennar. Þegar honum var sagt frá því, stóð hann stundarkorn kyr í sömu sporum, og horfði stíft og reiðugliga til Matthildar litlu, gekk svo upp í hús sitt, án þess að svara einu orði, fór síðan í annað herbergi þar hjá, og kom loksins eptir æði lánga stund liðna aptur og sagði: "Matthildur

má í þetta sinn fara með Elísabetu til kirkjunnar!" Nú stökk barnið með gleði á fætur, og vissi ekki, fyrir fagnaðar sakir, hvað það segja skyldi. En allra glöðust varð hún þó yfir því, að hún hefði ekki til forgefins beðið Guð um, að verka til þess, að hún feingi að fara til kirkjunnar; og þegar þessi litla kom nú heim aptur frá kirkjunni, hrópaði hún upp: "ó hversu mörgu hefur nú presturinn í dag sagt frá um þann elskuliga Frelsara, Drottinn Jesúm!"

Frásaga þessi er með öllum kríngumstæðum svo greiniliga uppskrifuð, af því hún fyrir sjónir setur ljósa reksemd þess, hversu að þeir sem trúaðir verða af Abrahams sæði halda sér með staðuglyndi fast við sinn Frelsara, þegar þeir að eins fá hann fullkomliga þekktan.

Eptir það nú Matthildur hafði í þetta sinn, sem sagt er, feingið að fara til kirkju með Elísabetu vinstúlku sinni, var henni framvegis hreint fyrirboðið af föður hennar, að hafa nokkra umgeingni eður afskipti af henni framar. En í stað þess átti hún dagliga að heimsækja og umgángast Gyðingabörn. En einusinni bar svo við, að hún áleingðar sá Elísabetu gánga í gegnum stræti staðarins, og þá stökk sú litla Matthildur á fætur og hljóp til hennar, svo þær feingu þá að sjá hvor aðra í fyrsta sinn eptir sex vikur liðnar. Hvað þær urðu nú glaðar yfir þessu, verður ekki útskýrt. Þá sagði Elísabet: "svona verðum við síðar meir glaðar, kæra Matthildur! og þó mun fögnuður okkar lángt stærri verða, enn nú, þegar við fáum loksins að sjá hvor aðra aptur hjá vorum elskuliga Jesú í eilífðinni, hvar svo margir munu þá móti okkur koma, og segja okkur velkomnar, svo vel sem aðra fleiri, sem elskað hafa Jesúm trúliga í þessum heimi. Þeir munu þá syngja og segja:

"Svo ertu loksins híngað hafin
"Úr heimsins stríði með ærú og dýrð;
"Sigurkyrtli með sóma vafin,
"Síst kann þín lukka verða útskýrð;

"Vertu oss øllum velkomin!
"Vorn fagnud' eykur sigur þinn."

"Sýngdu nú med oss tofgjørd ljósa
"Lambinu því, sem fórnad var;
"Þess megum gladir hreysti hrósa,
"Heimsins er allar syndir bar,
"Yfirvann djøful, dauda og hel.
"Dýrd sé vorum Immanúel."

Þá svaradi litla Matthildur: "ó hversu glød verd eg líka svo þá, þegar eg fæ þángad ad komast! Elísabet svaradi: æ, bid þú ad eins þann blessada Frelsara, ad hann vilji sem fyrst flytja þig þángad, þar sem hann nú sjálfur er! Þá svaradi sú litla Matthildur, og sagdi henni frá, hversu ad hún sífelt, sídan þær skildu, hefdi jafnan á hverjum degi bedist fyrir í húsi því, hvar þær opt hefdu talad saman; og hún kvadst ætíd hafa farid vel snemma á fætur, svo hún gæti þessheldur óhindrud bedist fyrir, og og bætti því vid: "eg get aldrei gleymt því, sem eg hefi feingid ad heyra um minn elskuliga Frelsara Jesúm; og eg vil af øllu hjarta gledja mig í honum og yfir hans miklu miskun!" Atta døgum þar á eptir kom hún um kvøldtíma, med mestu stillingu, til kirkjunnar, og frambar þar þá fyrir prestinum og ødrum þá hjartans ósk sína, ad søfnudurinn vildi med sér og fyrir sér bidja til Guds. Þetta var ogsvo trúliga gjørt. En fám døgum þar á eptir vard hún sjúk, en þó ekki svo, ad þad sýndist ad miklu marki. En Frelsarinn flýtti þó hennar lífi til sællrar endalyktar. Frá því viljum vér skýra med eigin ordum vinstúlku hennar Elísabetar: "eg gekk, sagdi Elísabet, med leyfi módur hennar, þegar hún var løgst sjúk, og færdi henni nokkur blómstur, sem henni þótti ofurvænt um. En vid høfdum ádur fyrri áksardad þad milli okkar, ad, ef Matthildur sjúk yrdi, og ef eg heimsækti hana, þá skyldi eg tala vid hana um himnaríki, en hún skyldi, (þó eg ekki ødruvísi — svo adrir heyrdu — til

orda tæki) undir eins hugsa til þess, ad eg meinti þarmed til þess elskuliga Frelsara Jesú Krists. Þegar nú módir hennar hafdi vikid sér dálitid til hlidar, þá spurdi eg hana og sagdi: kæra Matthildur min! hugsar þú nú til himnaríkis? Já, svaradi hún, og til alls þess, sem þú hefur mér ádur sagt. Æ, svo gleymdu því þá ekki, sagdi eg; hún svaradi: ó nei, eg hugsa sífeldliga til þess; eg skal aldrei gleyma því! Þá sagdi eg: þegar þú ert nú, min góda Matthildur! komin til vors elskuliga Frelsara í himnaríki, æ svo mundu þá til min! Þá rétti hún ad mér sina hálfstyrnudu hönd, grét hástöfum, og vid bádar grétum mikilliga. En loksins sagdi hún: nei, nei, min góda Elisabet! þér gleymi eg vissuliga aldrei! Þessi voru hennar sídustu ord, og hún vissi sidan þar eptir ekkert af sér. Módir hennar sá mig grúta, og spurdi: hvort Matthildur hefdi nokkud módgad mig, fyrst eg gréti? Eg svaradi: lángt frá! Eg græt útaf því, ad hún er svo ofurveik. Þá svaradi módir hennar: ó nei! hún er ekki svo mjög veik! En sem hún kom til hennar, var hún ordin mállaus, og tórdi svo í þessu þjáníngarástandi alls fjóra daga, þángad til hennar elskuligi Endurlausnari frelsadi hana til fulls frá öllum þjáníngum."

Nú má svoleidis segja og sýngja í anda yfir henni:

"Nú ertu komin hólpin heim,
"En hrekjast í veröld megum vér,
"Eilífan hreptir æru seim,
"Abáta daudinn veitti þér."

"Allt, sem vér trúum, þad sjer þú,
"Þad, sem oss vantar, fékkstu hreppt,
"Og óvini sigrad alla nú,
"Öllum vankvædum likfins sleppt."

"Kórónu lífsins bjarta berd
"Og blómgan pálmavid höndum í;
"Asjónu Guds um eilífd sérd,
"Einglanna lofgjörd sýngur frí!"

Af þessum sönnu fráségum má margt læra:

1) af þeirri fyrri: hversu ad sannar kærleiksstiptanir eru ekki ad eins merki kristindómsins og hans ávøxtur, heldur ogsvo medøl og máti til ad efla hann og útbreida.

2) ad sannur kærleiki audsýnir sig ekki ad eins í ad gjøra gott ødrum á líkamliga vísu, heldur allrahelst í því, ad efla þeirra sanna sálargagn.

3) Af þeirri sídari sjáum vér: ad þad getur skeð, ad hjørtu barna og únglínga geti uppvaknad midt í því ad hjørtu hinna fullordnu eru steindaud og dofin, og sannast þá Jesú ord hjá Matth. 21, 16, eptir Davíds munni, sálm. 8, 3.

4) hversu ad umgeingni med sanngudhræddum manneskjum — hvers stands, kyns edur alders sem eru — getur ordid uppbyggilig fyrir þá úngu, einsog umgeingni med holdliga sinnudum er þeim í mesta máta skadlig.

5) ad einsog yfirvegan Guds ords, og sönn bænrækni eru kveikingarmedøl sannarligrar umvendunar til Guds, svo skilja þau aldrei heldur vid þann trúada, svo leingi hans trú er sönn og lifandi.

6) ad Gud heyrir opt bænir barna sinna — fyrir sjálfum þeim og ødrum — hér í þessu lífi, þó lítid á beri, þegar þær mida til ad efla þeirra og annara andligu lukku, fyrir útvortis tilfelli, eptir kríngumstædum; því þau vilja þad sem Gud vill.

7) ad Gud frelsar sína útvøldu hédan á þeim hagkvæmasta og sér dýrdligasta tíma, hvernig sem þad svo út lítur fyrir mannanna augum. En látum oss kappkosta, ad vera vidbúnir, hvenær sem kallid kemur!

---

☞ Evangelisk Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi gefins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1852. Prentad hjá S. L. Møller.